# ÍSLENDINGADAGURINN



# 1932

Fertugasta og þriðja þjóðhátíð
Vestur-íslendinga

# *Fjallkonan*



(Photo by the Charach Studio, Winnipeg)

FRÚ SIGRÍÐUR OLSON

# Íslendingadagurinn

Fertugasta og þriðja þjóðhátíð
Vestur-Íslendinga.

—x—

FORSTÖÐUNEFND:

Dr. A. Blöndal, forseti
Dr. Jos. T. Thorson, varaforseti
G. P. Magnússon, ritari
Þorl. Hansson, féhirðir
Ásbjörn Eggertsson
Stefán Einarsson
G. S. Thorvaldson
G. J. Hjaltalín
Einar Haralds
Björn Pétursson
Jón Ásgeirsson
Séra Jóh. P. Sólmundsson

—x—

Haldinn í Gimli Park,

Mánudaginn 1. ágúst 1932.

## ÍSLENDINGADAGURINN

hefir af og til, á sínu fjörutíu ára skeiði, orðið að sæta ýmsum smávægilegum breytingum, ekki aðeins því viðkomandi, sem haft er um hönd, heldur líka viðvíkjandi stund eða stað. Verða þá starfsaðferðir að breytast dálítið um leið, og þurfa þá stundum aukna krafta frá því, sem áður hefir verið. Sérstaklega gætir þess mikið nú, í sambandi við hátíðahald í Gimli Park. Til uppfyllingar öllum þeim þörfum, sem af því hafa stafað, hafa upphaflegu nefndinni smámsaman bæzt miklir og góðir kraftar, sem hér segir:

### Í Winnipeg

Finnur Johnson
B. E. Johnson
Karl Kristjánsson
Pétur Sigurðsson
Jochum Ásgeirsson
Friðrik Sveinsson

### Á Gimli

B. N. Jónasson
Guðm. Fjeldsted
G. B. Magnússon
W. J. Árnason
Th. Thordarson
Hannes Kristjánsson
Sigmundur Jósefsson

Auk þess hefir fjöldi fólks, einkum í Nýja Íslandi, lagt mikið á sig, þessu hátíðahaldi til undirbúnings, svo allir hlutaðeigendur hafa nú, þegar þetta er prentað, beztu vonir um góðan árangur.

I. PARTUR

ÍÞRÓTTA- OG VERÐLAUNASKRÁ.

Íslendingadagsins 1932.

Formaður íþróttanefndar: G. S. Thorvaldson

Byrjar kl. 10.00 árdegis.

Íþróttir aðeins fyrir Íslendinga.

Hver íþrótt því aðeins þreytt að fjórir eða fleiri keppinautar séu.

ÍÞRÓTTA- OG VERÐLAUNASKRÁ.

---

1.—Stúlkur innan 6 ára, 40 yards

| | |
|---|---|
| 1. Verðlaun .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... | .50 |
| 2. Verðlaun .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... | .30 |
| 3. Verðlaun .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... | .25 |

ÍÞRÓTTA- OG VERÐLAUNASKRÁ.

2.—Drengir innan 6 ára, 40 yards

| | |
|---|---|
| 1. Verðlaun | .50 |
| 2. Verðlaun | .30 |
| 3. Verðlaun | .25 |

ÍÞRÓTTA- OG VERÐLAUNASKRÁ.

---

3.—Stúlkur 6 til 8 ára, 50 yards

1. Verðlaun .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .50
2. Verðlaun .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .30
3. Verðlaun .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .25

ÍÞRÓTTA- OG VERÐLAUNASKRÁ.

---

4.—Drengir 6 til 8 ára, 50 yards.

1. Verðlaun .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .50
2. Verðlaun .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .30
3. Verðlaun .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .25

ÍÞRÓTTA- OG VERÐLAUNASKRÁ.

5.—Stúlkur 8 til 10 ára, 75 yards.

1. Verðlaun .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .50
2. Verðlaun .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .35
3. Verðlaun .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .25

ÍÞRÓTTA- OG VERÐLAUNASKRÁ.

6.—Drengir 8 til 10 ára, 75 yards.

| | |
|---|---|
| 1. Verðlaun .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... | .50 |
| 2. Verðlaun .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... | .35 |
| 3. Verðlaun .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... | .25 |

ÍÞRÓTTA- OG VERÐLAUNASKRÁ.

7.—Stúlkur 10 til 12 ára, 100 yards.

1. Verðlaun .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .50
2. Verðlaun .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .35
3. Verðlaun .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .25

ÍÞRÓTTA- OG VERÐLAUNASKRÁ.

---

8.—Drengir 10 til 12 ára, 100 yards.

| | |
|---|---|
| 1. Verðlaun | .50 |
| 2. Verðlaun | .35 |
| 3. Verðlaun | .25 |

ÍÞRÓTTA- OG VERÐLAUNASKRÁ.

---

9.—Stúlkur 12 til 14 ára, 100 yards.

| | |
|---|---|
| 1. Verðlaun .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... | .75 |
| 2. Verðlaun .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... | .50 |
| 3. Verðlaun .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... | .35 |

## ÍÞRÓTTA- OG VERÐLAUNASKRÁ.

---

10.—Drengir 12 til 14 ára, 100 yards.

1. Verðlaun .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .75
2. Verðlaun .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .50
3. Verðlaun .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .35

ÍÞRÓTTA- OG VERÐLAUNASKRÁ.

---

11.—Stúlkur 14 til 16 ára, 100 yards

| | |
|---|---|
| 1. Verðlaun | 1.00 |
| 2. Verðlaun | .75 |
| 3. Verðlaun | .50 |

ÍÞRÓTTA- OG VERÐLAUNASKRÁ.

---

12.—Drengir 14 til 16 ára, 100 yards.

| | | |
|---|---|---|
| 1. | Verðlaun | 1.00 |
| 2. | Verðlaun | .75 |
| 3. | Verðlaun | .50 |

## ÍÞRÓTTA- OG VERÐLAUNASKRÁ.

---

13.—Ógiftar stúlkur, 100 yards.

1. Verðlaun .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... 1.25
2. Verðlaun .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... 1.00
3. Verðlaun .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .75




## ÍÞRÓTTA- OG VERÐLAUNASKRÁ.

14.—Giftar konur, 100 yards.

Tvenn verðlaun eru gefin af The Winnipeg Electric Railway, er vinnendur velja sér sjálfir í búð félagsins, Power Building, Winnipeg.

1. Verðlaun, ávísan .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... 6.00
2. Verðlaun, ávísan .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... 4.00

## II. PARTUR.

Verðlaunakeppnin um silfur-bikarinn, glímubeltið og skjöldinn, byrjar kl. 12 á hádegi. Silfurbikarinn gefinn þeim, til eins árs, er flesta vinninga fær. Beltið þeim er flesta vinninga fær í íslenzkri glímu. Skjöldurinn þeim íþróttaflokki, til eins árs, er flesta vinninga fær.

Hver íþrótt því aðeins þreytt, að fjórir eða fleiri keppinautar gefi sig fram.

Mörkum fyrir vinninga skal skift: 5 mörk fyrir fyrsta vinning; 3 mörk fyrir annan vinning og eitt mark fyrir þriðja vinning.

Verðlaun: — Medalíur verða veittar þeim þremur íþróttamönnum, sem flesta vinninga hljóta. Gullmedalíu fær sá, sem flesta vinninga fær; silfur-medalía verður gefin þeim, sem næst-flesta vinninga hefir, og sá þriðji fær bronze-medalíu.

Glíman byrjar að afstöðnum ræðuhöldum.

Eftirfylgjandi skrá skal fylgt, samkvæmt reglum Amateur Athletic Union of Canada. En þó hefir formaður íþróttanefndarinnar vald til að breyta henni ef nauðsyn krefur.

15. Heats 100-yard Dash.
16. Shot Put
17. Final 100-yard Dash
18. Running High Jump
19. 440-yard Race
20. Running Broad Jump
21. Half Mile Race

22. Hop, Step and Jump

23. 220-yard Race

24. Íslenzk glíma.

25. Dans, byrjar kl. 8.30 síðdegis. Dansinn verður í danshöll lystigarðsins.

III. PARTUR.

# Skemtiskrá

O Canada — Ó Guð vors lands

1. Ávarp forseta: Dr. Ágúst Blöndal
2. Fjallkonunni fagnað
3. Ávarp Fjallkonunnar: Frú Sigríður Olson.
4. Ávarp frá tignum gestum.

Barnakór — Blandaður kór.

5. Minni Íslands—
Kvæði—Séra Jónas A. Sigurðsson.
Ræða—Jón J. Bíldfell
Blandaður kór.
6. Minni Canada—
Kvæði—Dr. Sveinn E. Björnsson.
Ræða—G. S. Thorvaldson.
Blandaður kór.
7. Minni Vestur-Íslendinga—
Kvæði—Bergþór E. Johnson.
Ræða—Séra Björn B. Jónsson, D.D.
Blandaður kór.
8. Minni Kvenna—
Kvæði—Sigfús B. Benedictsson.
Blandaður kór.
9. Hljóðfærasláttur—
Mr. Pálmi Pálmason og flokkur hans.

ELDGAMLA ÍSAFOLD

GOD SAVE THE KING

# Ávarp Fjallkonunnar

I.

Sjá, dagar koma, ár og aldir líða,
Og enginn stöðvar tímans þunga nið.
Í djúpi andans duldir kraftar bíða.
Hin dýpsta speki boðar líf og frið.
Í þúsund ár bjó þjóð við nyrztu voga,
Mót þrautum sínum gekk hún djörf og sterk.
Í hennar kirkju helgar stjörnur loga,
Og hennar líf er eilíft kraftaverk.

D. St.

II.

Þó að margt hafi breyzt síðan bygð var reist,
Geta börnin þó treyst sinni íslenzku móður.
Hennar auðmjúka dygð, hennar eilífa trygð,
Eru íslenzku bygðanna helgasti gróður.
Hennar fórn, hennar ást, hennar afl til að þjást,
Skal í annálum sjást verða kynstofnsins hróður.
Oft mælir hún fátt, talar friðandi lágt.
Hinn fórnandi máttur er hljóður.

D. St.

III.

Þó þú langförull legðir
Sérhvert land undir fót,
Bera hugur og hjarta
Samt þíns heima-lands mót,
Frænka eldfjalls og íshafs!
Sifji árfoss og hvers!
Dóttir langholts og lyngmós!
Sonur landvers og skers!

Yfir heim eða himinn,
Hvort sem hugar þín önd,
Skreyta fossar og fjalls-hlíð
Öll þín framtíðar-lönd!
Fjarst í eilífðar útsæ
Vakir eylendan þín:
Nóttlaus vor-aldar veröld,
Þar sem víðsýnið skín.

Það er óska-land íslenzkt,
Sem að yfir þú býr —
Aðeins blómgróin björgin,
Sérhver bald-jökull hlýr.
Frænka eldfjalls og íshafs!
Sifji árfoss og hvers!
Dóttir langholts og lyngmós!
Sonur land-vers og skers!

St. G. St.



# Minni Íslands

1. ágúst, 1932, að Gimli.

---

Hugur minn sá heima
Hátign skaparans.
Drottinn, lát mig dreyma
Dýrð míns föðurlands.

Langar leiðir fór eg,
Lönd og þjóðir sá. —
Ástareiða sór eg
Eynni, nyrzt í sjá.

Þar, í faðmi fjalla,
Fann eg uppheims blæ
Græða mannlífs galla, —
Guð — á næsta bæ.

Sögur, söngur, ljóðin,
Sæmd er fjalla-lands.
Þarna bygði þjóðin
Þinghá kærleikans.

Hátt þú rís úr hafi,
Hreint er guðamál.
Ver þú Vitazgjafi —
Vizka, heimsins sál.

Inst í hjarta á eg,
Ísland, þína mynd. —

Þig til dauðans þrá' eg,
  Þekkan dal og tind.

Þótt að foldin fanna
  Fátæk virðist þér,
Ímynd eilífðanna
  Ísland verður mér.

* * *

Nú er hjartað heima, —
  Hjarta íslenzks manns.
Guð, mig lát ei gleyma
  Göfgi ættarlands.

**Jónas A. Sigurðsson.**



# Til Canada.

Á Gimli og Hnausum Íslendingadaginn 1. ágúst 1932.

Sem Íslands móðursvipur hreinn og hár
hugsjónir vakti þjóð í fjallasal,
þinn tigni fjallahiminn hár og blár
sé heilagt tákn þess alls, sem verða skal.

Að máttur landsins, kjarni alls sem er
aldanna þroski fram að hinztu stund,
styrki þá hönd, sem friðarfánann ber
fram og til sigurs hér á þinni grund.

Sá innri kjarni er afl í þjóða sál,
Eldstólpi er lýsir gegnum dimma nótt.
Andinn, sem gaf oss íslenzkt tungumál.
Aldanna vald, er skapar lífsins gnótt.

Takmark þitt sé að göfga andans afl
hjá ungri þjóð á nýrri sigurbraut.
Og kenna henni að leika lífsins tafl
með list og prýði við sitt móðurskaut.

Þá munt þú finna frið í þinni sál,
fjölgresi jarðar búast nýjum lit.
Orð þitt þá verður alheims tungumál,
afl þitt og menning heilbrigt líf og vit.

Sem Niagara heita hjartablóð
á hulið magn, er kveikir ljóssins bál,
vor framtíð öll, vor saga, lífs vors ljóð,
lifi sem máttug rödd í þinni sál.

S. E. Björnsson.

# Minni Vestur-Íslendinga

Gimli 1. ágúst, 1932.

Eftir
Bergthor Emil Johnson.

Til vesturs er haldið
með vonir í huga,
aflið í taugum
og orku að duga.

Skilið við frændur
og feðra slóðir.
Kvödd er systir
og kvaddur bróðir.

Örugt er fagnað
á framandi vegi
og lagt á hafið
mót heiðum degi.

* * *

Í landinu unga
eru langir dagar,
sorgir, veikindi
og svangir magar.

Það bogna herðar
að höggva skóginn.
Og hendur kreppast
að halda um plóginn.

En lífsþrekið sigrar
og landnema dygðir.
Svo orðstírinn þeirra
nú ómar um bygðir.

Og vonirnar rættust,
svo vegur er sléttur.
Og Íslendings hróður
í öndvegi settur.

* * *

Og fortíðin lýsir
um landnemans brautir,
og ylgeislum stráir
á stríð hans og þrautir.

Af moldu hans rísi
sá minninga andi,
er bróðurhug festi
með frelsi í landi.

Og feðranna hugsjón
sé framkvæmd í verki.
Og landnema frægðin
skal framgöngu merki.



Snjóar fölu fell og grund
flóa og hóla bað
þó í skjóla lifðu í lund
sólu sólar kvæði